# Viku-Bænir Kvøld og Morgna,
útlagdar úr engelsku af útgéfaranum.

## A Sunnudags-morgun.

O Drottinn Gud! þú sem ad afloknu sköpunarverkinu hvíldist á þeim sjøunda deigi, og sem skipad hefir oss sképnum þínum ad helga þann sjøunda part vors tíma til þinnar opinberu dýrdkunar. Æ hjálpa oss nú í dag ad hlýda trúliga þessu þínu heilaga bodordi. Vér þøkkum þér, ad þú hefir bodid oss, ad elska þig og ákalla, því vér vitum ad náð þín og vinátta er léfinu þúsundsinnum betri, já vér lofum þig fyrir þad, ad þú í dag skipar oss ad hvílast frá líkamans erfidi, svo vér fáum þess betra færi ad dýrka þig svovel heima hjá oss, sem í þínu húsi, med heyrn og lestri þíns ords, med bænum og heiløgum hugleidíngum og gudligu innbyrdis samtali. O géf oss nú ad byrja þennan dag og þessa viku í þínum ótta; géf oss lifandi ímindun um þína allstadar nálægd; og midt í því ver framberum vorar bænir fyrir þig, í nafni vors einasta medalgángara Jesú Christs, þá sannfær oss um, ad þú sért nálægur øllum

þeim sem þig ákalla, öllum þeim sem þig í trúnni á hans nafn audmjúkir ákalla. Ad vísu erum vér himneski Fadir! ómakligir ad kallast þín börn, af því vér höfum svo óttaluligar syndir móti þér framid; en dýrd sé þér fyrir þad, þú gafst oss þin son Jesúm Christ, til ad deya fyrir oss, því annars hefdum vér eilífliga tortínst. En þú miskunadir oss, og lætur oss þá miskun í þínu ordi kunngjöra. Hjálpadu oss, í dag, med áhuga ad spyrja: hvad skal eg gjöra svo eg hólpinn verdi? og sídan trúliga fylgja þeim rádum, sem þú oss þar til leggur. Vér þökkum þér fyrir þad, ad þú í dag villt unna oss ad heyra þitt, heil. ord, sem frelsa kann sálir vorar. Æ géf oss athugasamt hjarta til ad heyra þad, og áhyggjufullt ad lifa eptir því; lát þad ei fordæma oss, heldur frikénna á sídasta deigi. Géf öllum kénnimönnum, og sérílagi þeim sem oss á ad kénna, anda til ad syna oss þann rétta veg til sáluhjálpar. Vek upp samvitskur vorar med ordi þínu, svo vor spilling verdi oss óttalig, syndin vidbjódslig, þín nád girnilig og Jesú fridþægíng séndanliga dýrmæt. Lát alla vora vini og vandamenn, já alla sem Christnir kallast, uppvakna til ad sorga af alvöru fyrir sálum sínum, og láttú þína nád vinna sigur yfir hjarta þeirra til sannrar umvendunar sáluhjálpligrar trúar og réttrar lífernis betrunar. Vér bidjum, o vor Gud! ad þú látir þin anda vardveita vor hug-

ſkot frá öllum saurugum þaunkum, vora túngu frá óviðurqvæmiligum orðum, og vora hegðun frá ósæmiligum verkum. Géf oss að gánga til þíns húss með auðmkýt, dvelja í þínu húsi með andagt og fara frá þínu húsi með besta áſetníngi. Styrk minni vort til að nema þitt orð, ſkinsemi vora til að ſkilja það, og vilja vorn til að breita eptir því. Vér erum sáfróðir, uppfræð þú oss; vér erum ſekir fyrirgéf þú oss; vér erum vondir, umvend þú oss. Bænheyr oss nú, o Faðir! um allt þetta, vegna þíns sonar Jesú Christs, hverjum ásamt þér og heil anda sé heiðar og lof að eilífu! Amen!

## Á Sunnudags-kvöld.

Vér þökkum þér, allra miskunsamasti Faðir! fyrir velgjörnínga þá, sem vér þeigið höfum af þér, á umliðnum deigi. Vér þockum þér fyrir fæði og klæði, og allar aðrar velgjörðir til þessa lífs nauðþurftar, en vér þöckum þér þó allra helðst fyrir þinn kjærleika í Christo Jesú, hvörn þú oss kunnan gjörðir með hans Evangelio; fyrir meðöl náðarinnar og fyrir von dýrðarinnar. O hve dásamligt er það, að oss vesælum syndurum prédikast ſkuli fyrirgéfníng syndanna, fyrir blóð vors Herra Jesú, og að oss ſkuli frambjóðast að fá hlutdeild í henni. Oss hefir, o Herra! kénnt verið hvörsu syndugir vér séum í þínu augliti; vér biðjum þig: lát oss með hugarángri finna

til synda vorra. Jó, lát endurminníngu þeirra verda oss alvarliga bitra og byrdi þeirra óþolandi, en þar vér heyrdt höfum bodskapinn af Jesú, sem dó til þess ad burtutaka syndir vorar, æ svo géf ad vér gétum med lifandi trú trúad á hann, med trúadri von tilbedid hann, og med vonarfullum kjærleika eptirfylgt hönum. Nú þar sem vér megnum eckert þetta án þinnar nádar, þá send oss þinn heil. anda, eptir þínum fyrirheitum, svo hann upplýsi vorn skilníng, helgi vorn vilja, og hreinsi samvitsku vora af daudum verkum, med Jésú blódi. O Herra! géf oss vid endíngu þessa heil. dags, ad géta fundid til þess, hvad óseigjanliga dýrmætar vorar sálir eru, og þad kann alls eckert manneskjuna-stoda, þó hún vinni allan heiminn, ef hún lídur tjón á sálu sinni. Nú er einn dýrmætur Drottins dagur umlidinn, og vér vitum ecki, hvort vér fáum annan aptur ad líta. Máské ádur enn annar kémur, ad vér komnir verdum inní eilífdina. O hvad mörgum Drottins dögum höfum vér til ónýtis tapad. Hvörsu litt höfum vér brúkad þann nærstlidna, eins og vér hefdum átt ad brúka hann. Hvörsu kaldar hafa verid vorar bænir um þína nád; hvörsu tilfinníngarlaust vort hjarta undir þínu ordi; og þó oss hafi predikad verid, ad Christur hafi dáid til ad frelsa oss, hvörsu lítt hefir sá stóri og blessadi sannleikur á oss tekid. O miskunsami Gud! fyrirgéf þú oss og

hjálpa þú oss nú á þessu kvøldi, ádur enn vér aptirlykjum augum vorum, æ hjálpadú oss til ad flýi til Christum, í sannri trú á hans frid-þægíngu, med brennandi bæn um náð og frelsi; svo ef vér leggjuust út af, til þess ad vakna ei aptur til þessa lífs, ad vér þá mættum sofna út af í Jesú nafni, og verda svo ad eilífu sálu-hólpnir fyrir hann. En ef þú lofar oss ad sjá ljós annars dags hér á jørdu, þá bidjum vér þig, ad þú veitir oss, ad umþeinkíng þess vér heyrdt høfum af ordi þínu í dag, mætti verda oss í fersku minni, alla þá eptirkomandi viku, hvørja vér nú byrjad høfum. Þegar vér freist-adir verdum til syndarinnar, ó! ad vér gjætum þá minst þess, ad syndin krossfesti vorn Frelsara Jesúm Christum. O ad vér gjætum alvarliga áset oss, fyrir þinn nádar krapt, aldrei framar vís-vitandi ad syndga. O ad ver umflýum þá stadi, þær persónur og þau tækifæri, sem ad undan-førnu hafa leidt oss til ad brióta þín bodord. O ad vér óttunst framar ad styggja þig, enn tapa lífi voru, og kappkostum framar ad þóknast þér, enn ad frelsa líf vort. O ad vér aldrei skømm-unst vor fyrir ad láta í ljósi vort áform, ad lifa eptir þínum vilja. Lát oss skammast vor fyrir syndina, enn ei fyrir neinn hlut annan. Lát oss aldrei blygdast vid ad játa vora trú á Christum þann krossfesta, heldur øruggliga berjast undir hans merkjum móti holdi, heimi og djøfli, og

áframhalda að vera hans trúlyndir friðsmenn allt til dauðastundar. O Guð vor Faðir! hvørs náttúra og eiginligleiki alltið er, að miskuna og fyrirgéfa; tak á móti vorum auðmjúkum bænum, og veit þeim náðarríka áheyrslu! Æ gjør það vegna Jesú Christs þíns sonar friðþægíngar og fyrirbænar! Amen.

## A Manudags morgun.

Almáttugi eilífi Guð! vér viðurkénnum að vér allir erum í syndinni gétnir og fæddir; að allt hvað af holdi er fædt það er hold, og að þeir sem í holdinu eru, ecki géta Guði þócknast. Vér vitum líkasvo, að vor Frelsari hefir sagt: nema nockur verði að nýu fæddur, kann hann ecki að sjá Guðs ríki. Æ lít þessvegna í miskun til vor, og lát þinn heil. anda endurfæða oss og helga, svo vér ecki deyum í syndum vorum. Lát hann lífga í oss trúna, vekja í oss vonina, kveikja í oss kjærleikann, svo vér fyrir hans krapt gétum trúað á Christ, vonað eilífs lífs og elskað hvør annan. Já lát hann greiða fætur vora á friðarins veg, svo vér haldið fáum réttri stéttu til vors himneska Føðurlands, hvar trúin verður að skoðun, vonin að fullvissu og kjærleikurinn í algjørdum blóma að eilífu. Nú byrjum vér einn erfiðis dag á þessum degi, á hvørjum vér stunda eigum svovel vorar jarðnesku sem andligu skyldur.

Vardveit osß frá þeim freistingum, sem veröld þessi er full af. Lát ei girndina til þess jarðneska verda osß ofinnrætta, né hugsýki fyrir voru líkamliga lífi, útrýma umsorgum fyrir sálum vorum. Gef osß ad erfida ecki einúngis fyrir þeirri sýniligu fædu, sem forgeingur, heldur og svo fyrir hinni ósýniligu, sem stödug blífur til eilífs líf, og lát sálir vorar eins húngra og þyrsta eptir þessari, sem líkamann eptir hinni. O Drottinn láttu þinn ótta halda vörd yfir hjarta voru, svo eingin lisíng til ills fái þar yfirhönd. Lát vorar jardnesku sýslanir allar helgast ad þeim þánkamáta, ad vér framar æsum þær af því þú hefir osß þad skipad, enn af því, ad vér finnum í þeim osstórt eptirlæti. Lát osß minnast þess, ad þetta þitt ord: „í sveita þíns andlitis skaltú þíns braudß neyta" er einn partur af straffunardómi þíns réttlætis vegna synda vorra. Lát þanka þann audmýkja osß, og gjøra þolgóda undir voru erfidi; já uppvekja osß til ad umflýa þad eiginliga straff, sem syndir vorar tilvinna, sem er eilíf fyrirdæming.

O Drottinn! þú sem þeckir þá heimugligu þánka vors hjarta, lát þad vera vora stærstu girnd í dag, ad vaxa í þinni nád og þeckíngu Drottinn vors Jesú Christs. Lát þinn anda minna osß á, midt í erfidi voru, hvad vér í gjærdag gott heyrdum út af ordi þínu, og hverjar skyldur þad brýndi fyrir osß, ad breita eptir. Vardveit vora

túngu frá heidíngligu tali, hendur vorar frá öll- um verknadi og hjarta vort frá saurugum girnd- um. Gef oss ad brúka svo heiminn, ad vér ei misbrúkum hann. Lát oss minnast þess, ad vér erum þínir þjónir, svo þitt ord sé vor mælisnúra í vorri þjónustu. Gjör syndina oss vidurstyggi- liga, svo vér umflýjum hana, sem annan högg- orm; og lát eingan hlut koma oss til ad hafast nockud þad ad, til orda edur verka, sem sam- vitska vor fordæmir. Lát oss heldur vilja allar þrautir lída, enn móðga vorn blessada frelsara, edur hryggja hans heil. anda. Hjálpa oss, Drott- inn! til ad veria svoleidis þessum deigi, sem hann verda ætti vor sídasti í þessum heimi; vér vitum þó ecki, hvort oss audnast muni annan aptur ad lifa. Í einu ordi: gjör oss, o Gud! sáluhólpna, fyrir sakir þinnar miskunar í Jesú Christo, í hvörs nafni vér óskum og væntum þinnar bæn- heyrslu! Amen.

## Á Mánudags-kvöld.

Ecki vogum vér ad koma fram fyrir auglit þitt, ó þú miskunsami Herra! í trausti vors eigin réttlætis, því þad er fánýtt og foraktanligt, held- ur í trausti þinnar nádar, sem er svo dýrmæt og dýrdlig. Vér erum ecki verdugir ad upplypta vorum augum til þín; en af því þú ert sá Gud, hvörs eiginlegleiki er miskunsamur ad vera, þá

bidjum vér þig, veit oss þína náð, að vér á þeirsari stundu mættum byrtast fyrir þér, ecki að eins sem sképnur fyrir augliti skapara síns, sem sakadólgar fyrir augum dómara síns, heldur sem auðmjúkir syndarar fyrir augliti síns náðarríka lausnara, og sem biðjandi børn fyrir sínum ástríka og meðaumkunarsama føður. Þér, ó Drottinn! tilheyrir miskunsemin, en oss blygðan vors andlitis.

Vér høfum þennan dag syndgað á móti þér, og erum því dauða sekir; en vér høfum samt einn talsmann hjá þér, Jesúm Christ þann réttláta, hvørs blóð talar betri hluti enn Abels, já hvørs blóð hreinsar af øllum syndum. Ó Drottinn! kénn oss að biðja! æ úthelltú yfir oss anda náðar og bænar. Þinn heil. andi hjálpi vanmætti vorum, því vér vitum ecki, hvørs vér eigum að biðja, sem oss bæri. Æ að hann biðji því fyrir oss með þeim andvørpum, sem ei verða útteluð. Ó verka þú í oss á þeirsari stundu laungun eptir þinni náð og ímind, og hana svo sterka, að einginn hlutur géti fullnægt henni, nema sannarlig reynsla þinnar fyrirgéfandi miskunar og helgandi náðar. Vér vitum að hjarta vort er af náttúrunni vondt og svikult, gef oss þar fyrir hreinskilið hjarta til þinnar tilbeiðslu, og einlægan ásetníng og aðburði til að deyða í oss vondar girndir, umflýa heimsins hneigslanir, en ástunda guðligar athafnir. Vér flyum til þín,

á þessu kvöldi, o þú allra mektugasti Fadir! er sierd ad sjálfir vèr höfum eingan krapt til ad bjarga oss, og bidjum þig, vardveittú oss bædi á líkama og sálu, svo vèr óhultir vera meigum fyrir öllu skadrædi líkamans, og öllum vondum þaunkum, sem árás kynnu gjöra hjarta voru og sálu. Þú veitst ad vér hér í heimi staddir erum midt í svo mörgum og stórum háskasemdum, ad vér, sökum vors náttúru breiskleika, fáum eingan veiginn vid þeim risid; veit oss þvílíkan styrk og vernd, sem nægir til ad hjálpa oss í öllum háska, og frelsa oss út af öllum freistíngum.

O Gud, hvörs miskunnsemi vid oss sýnir þig ad vera vorn födur, sem ert á himnum, stjórnandi yfir öllum skèpnum. Helgist og vegsamist ad eilífu þitt nafn, fyrir alla þína oss audsýnda gjædsku. Lát ríki þíns réttlætis, fridar og fagnadar í heilögum anda, stadfestast í vorum hjörtum, og gjör oss hæfa til ad njóta loksins eilífs fagnadar í ríki þinnar dýrdar. Verdi samt ecki vor, heldur þinn vilji, hvad sem þú lætur vid oss hér á jördunni framkoma, hvört þad heldur er blídt edur stríidt; og láttú vilja þinn ráda eins yfir oss, sem hann rædur yfir heilöglum á himnum, hvörjir hönum hjartanliga hlyda. Gèf oss svo mikid sem naudsynligt er til vors líkamliga uppheldis dag hvörn, en þó sérdeilis ánægt hjarta med þad sem þú oss úthlutar. Lát oss ecki einúngis erfida fyrir því braudi

sem forgtingur, heldur heldst fyrir hinu, er varir til eilífs lífs. Lát vora stærstu umsorgun vera fyrir sálum vorum, og fyrirgéf oss veslum syndurum allar vorar yfirtrodslur, fyrir Jesú Christs sakir, sem deydi til ad fridhægja fyrir oss. Fyrirgéf oss, gódi Gud! eins og vér fyrirgéfum einlægt þeim sem móti oss brjóta; og þegar þú hefir fyrirgéfid oss umlidnar syndir, þá vardveit oss frá ad drygja þær framveigis. Leid oss eki, o fadir! inn í hættu freistíngarinnar, því vér kunnum, oss til eilífs tjóns, í henni ad hrasa; yfurgéf oss þessvegna eki, vér bidjum þig, vondsku óvina vorra, né vorri eigin dármensku. Heldur frelsa oss frá illu; já frá sjálfum þeim illa, og frá ellum illum hlutum, medal hvorra syndin er hinn versti. Þessara þinna Miskunsemda erum vér nú þurfandi, og þó vér seúm þeirra aldeilis ómakligir, eingu ad sídur bidjum vér þig um þær í Jesú nafni. Þú einn géur hjálpad oss, því þitt er ríkid og þinn er mátturinn. Þú hefir opt af nád þinni frelsad veslu syndara, hvors vegna menn og einglar med fegnudi vidurkénna, ad þér tilheyri vegsemdin og dýrdin. Og vér viljum og svo, fyrir þinnar miskunsemdir vid oss, skuldbundnir finnast til ad fylla flock þeirra, sem kunngjöra þínar dásemdir á himni og jördu; já um aldir alda, í þeirri veroldu, sem eingan enda tekur! Amen.

## Á Þridjudags-morgun.

Eilífi miskunsami Fadir! hvørsu forebitnir meigum vér játa það fyrir þér, að vér, eins og villtir saudir, høfum vikid frá brautu bodorda þinna. Vér høfum yfirgéfid þig, þann góda hyrdir, hvørs vegna oss á hvørju augnabliki búinn er háski sá, ad verda þeim eilífu dauda að bráð. Þér høfum ofmjøg fylgt girndum vors spillta hjarta, sem leida oss á veg eilífrar gløtunar. Þér vitum að þitt løgmál er heilagt, réttlátt og gott, þó høfum vér á ótalfaldan hátt móti því brotid. Vér høfum bædi látid ógjørdt það sem það skipar, og drýgt það sem það bannar; og þetta hefir oss hendt sérhvørn dag, og sérhvørja stund vors lífs, sídan vér feingum vitid. Ut af þeisu erum vér nú sárliga ángurbitnir fyrir þér. Sýndú oss þessvegna sekum vægd, nádugi Fadir! og sparadu oss enn nú af þolinmædi þinni, þó vér høfum unnid til eilífs dauda. Lát oss ad vísu finna til syndarinnar hørmúnga í samvitsku vorri, svo oss lángi til þess medals, með hvørju þú hreinsar samvitskur vorar, af daudligum verkum, þér sjálfum til þjónustu. Lát oss hafa, þá sorg af syndum vorum, sem gjøri oss hæfa til ad móti taka huggunum þíns heil. anda. Géf oss þessvegna sanna ydrun í sálir vorar, svo vér midt í þeirri ydrun tøkum vort tilflugt til þíns sonar fridþægjanda dauda, hvørn þú sett

hefir til nádarstóls í hans eigin blódi. Þú hefir af miskun þinni sparad oss á umlidinni nóttu ÆE hefdir þú nú látid oss deya, mundi sá daudi hafa ordid oss til fordæmíngar edur frelsunar? hvort mundum vér nú á þessu augnabliki hafa verid staddir í hóp þeirra sem emja í eilífum kvølum, edur hinna, sem skína sem sól í ríki þeirra fødurs? géf oss nú ad hugsa um þetta af allri alvøru, og eptir þetta verda ennú ákafari í umsorgun sálna vorra, enn vér nockrusinni ádur verid høfum; og ó hvørsu heppnir værum vér, ef hjørtu vor yrdu af þessari umsorgun svo inntekin, ad vér eckert framar áslundudum, enn ad strida fyrir dyrdarinnar kórónu. Vardveit oss nú, Drottinn! á komandi deigi, frá øllu syndarinnar svikrædi. Lát alla vora þánka, ord og verk sem best lagast eptir þínum vilja; en ef vér skeikum, þá væg oss sökum þinnar eilífu miskunar, og snú oss aptur á rétta leid, svo vér ei fyrir-ferunst í syndum vorum. Nú høfum vér, o Drottinn! ásett oss ad géfa oss til þinnar þjónustu, því vér vitum ad vegur syndarinnar, er vegur hørmúngar og dauda; vér vitum og svo ad þessi vegur er breidur, og á hønum reika margir villtir syndarar. Vér viljum eingu ad sídur yfirgéfa hann og stefna á hinn þraunga, hvørsu sáa samreisendur sem vér þar finnum. ÆE snú þú, ásamt oss, øllum þeim sem villtir eru, svo þeir loksins komist á þann rétta

lífsins og ljóssins veg, rati þá réttu leid til himins og ödlist eilífa arfleifd í þínu ríki, fyrir þins sonar, vors frelsara, Jesú Christs sakir! Amen!

## Á Þridjudags-kvöld.

En þá hefir þú, Drottinn vor Gud! unnt oss, af þinni miskun, sem oss sparad hefir, tækifæris ad koma saman fyrir þínu augliti, og beigja vor kné, fyrir tróni nádar þinnar. O hvörsu stór æra er þad ad þú leyfir oss ad tala vid þig, þú kóngur kónganna; þótt vér í heiminum værum aldrei svo forsmádir, þá samt, medan vér njótum þeirrar æru; ad meiga koma fram fyrir þitt heil. auglit, þurfum vér ecki ad öfunda veraldarinnar höfdíngja, fyrir þeirra skammvinnu metorda skuld; því nær mannanna hjörtu eru einlæg fyrir þér, og hafa alvarliga laungun til ad gjöra þinn vilja, þá villtú einsvel, ad nád þinni, vyrdast ad vera nálægur í kotum þeirra fátæku, sem í höllum þeirra ríku. Þad er eitt sundurknosad hjarta, í hvörju þú lofad hefir ad búa. O gef oss þvílíkt hugarfar; þá munum vér, hvörsu fátækir sem vér í þessum heimi verda kynnum, sannarliga ríkir verda, nær vér eigum þig fyrir vorn vin og hlutskipti ad eilífu. Ef þú ert vor hyrdir og vér þínir saudir, sem heyra þína rödd og fylgja þér eptir, þá gétur oss eckert brostid. Þú gjefur oss fædi og klædi,

og þó hvorutveggja aldrei svo fátækligt væri, væri það samt lángt fram yfir það sem vér til unnid hösum; því vér vitum, að með syndum vorum höfum vér brotið af oss rétt til sérhvörs mola brauðs, sem vér færum oss til munns, og sérhvörs dropa vatns, með hvörjum vér slöckum vorn þorsta. Géf oss þína náð, o Drottinn, að vér gétum þeckt þig, elskað þig og þjónað þér, þá münum vér ánægdir verda, með hvað helldst þín forsjón oss í tje lætur, og síðan fullsælir eilífliga. Og nú, Drottinn! afhendum vér í þínar hendur sálir vorar og líkami á þessari nóttu. Séu líkamir vorir lúdir af erfiði þessa dags, þá hefir þú ákvardað stundir næturinnar, til að endurnæra þá aptur með svefninum. En ecki voguñst vér að apturloka augum vorum, fyrrenn vér höfum mænt þeim uppá þig, og beðið þig að þú viljir bera umsorgun fyrir oss. Elds- edur vatns-vodi kynni að granda húsum vorum og lífi, nema þín forsjón vekti yfir oss. Vér kynnum að deya, án þess að géta feingið nockurn frest til að hrópa: Herra vertu oss syndugum líknsamur! vér felum oss þessvegna á vald þinnar miskunarríku varatektar. Vér erum syndarar, það vitum vér, en þú hefir líka gefið oss þíns sonar Forlíkunar fórn, til að frelsa syndarana; jafnvel þá stærstu meðal þeirra. O Drottinn! frelsa þú oss; og veit oss, að nær sem helldst vér kallaðir verðum úr tímanum inn í

eilífdina, ad vér þá deya mættum í fridi vid þig. fyrir trúna á Jesú vors lausnara blód. O hreinsadu vorar samvitskur á þessu kvøldi, frá sektum synda vorra; og géf oss ad leggjast til sængur, med þeirri velgrundudu vissu, ad þó vér ecki fáum ad vakna aptur til þessa jardneska lífs, ad vér samt í Abrahams fadm innteknir verdum. Lát vora sídustu þánka, ádur vér sofnum, vera um þig, og þína elsku til vorra syndugu sálna; og nær vér vøknum ad morgni aptur, géf oss ad brúka vor fyrstu augnablik til ad hugsa til þín, med audmjúku ákalli. Vér bidjum þig, ó Drottinn! upplýs þú vor andligu myrkur; og, fyrir þinnar stóru miskunar skuld, vardveit oss frá øllum háska og voda á þessari nóttu, og lát oss njóta elsku og árnadar þíns eingétins sonar, vors lausnara Jesú Christs. Nú, himneski Fadir! þó sérhverjum deigi fylgi sín mæda og þjáníng, sem allt er ávøxtur syndarinnar, þá sé þínu nafni samt dýrd fyrir þad, ad þú ecki forsmáir andvarp eins þjáds og sundurmarins hjarta, né grátbeidni og girnd þeirra sem sorgfullir eru. Heyr þessvegna miskunsamliga bænir vorar, sem vér framberum fyrir þig, í øllum vorum þjáníngum og mótgángi, nær heldst sem hann yfir oss falla kynni og veit nádarsamliga ad øll sú ólucka, sem flægd og máttur diøfulsins og vondra manna kynni vilja brugga oss, gjøri oss eingan skada á sálu edur líkama, heldur knýi oss því framar ad

slíka til þinnar miskunar; svo vér, þínir þénarar frelsadir frá öllu illu, mættum sífeldliga, alla vora lífdaga, greida þér, med hjarta og munni, audmiúkt og skyldugt þakklæti, fyrir Jesúm Christ vorn Herra. Amen!

## A Midvikudags-morgun.

O þú heilagi Gud og Fadir Drottins vors Jesú Christs, þú skapari allra hluta, og dómari allra manna; gef oss ad játa og gráta vorar mörgu syndir, sem vér med hugrenníngum, ordum og verkum höfum alla tíma móti þér framid, og þar med egnt yfir oss þína réttferdugu reidi. O lát oss hjartanliga ydrast þeirra, og minníngu þeirra verda rétt ógnarliga. Fyrirgef oss þær sídan af miskun þinni, vegna þíns sonar Jesú fridþægjanda dauda, og gef oss ad vér sídan fordunst þær alvarliga, en þjónum þér — sem þínir vinir — í heilagleika og réttlæti, alla vora æfidaga. Þú hefir fyrir þinn son bodid þeim til þín, sem af syndanna þúnga þjádir eru, og hefir lofad ad endurnæra þá. Lát oss, nú á þessum morgni smacka þvílíka endurnæríngu í sálum vorum. Minstu ecki synda vorra, sem margar og miklar eru, og gáck ecki í dóm vid þræla þína, heldur spara þú oss, Drottinn! af þinni miskun, og vertú oss ecki æfinliga reidur. Vardveit oss á þessum deigi, vér bidjum þig, frá allri synd og vondsku; frá óvini sálar vorrar, sem geingur

um kríng, sem grenjandi ljón, já frá þeim eilífa dauda, sem vér forþénad höfum. Æ Gud vors hjálpræđis vér sárbænum þig, vegna þíns sonar banastríds og blódnga sveita, vegna hans sáru kvala og krossfestíngar, vegna hans dýrmæta dauda og greftrunar, vegna hans dýrdligu upprisu og himnafarar, og vegna hans algildu forþénustu og árnadar ords frelsa þú, ecki einasta í dag heldur alla tíma, ecki einúngis oss, helldur alla vora samchristna, frá lögmálsins bölvun, frá satans snörum, syndarinnar svikrædi og ad lyktum frá eilífri fordæmíngu. Lát ecki veraldligar sýslanir á þessum deigi svo inntaka oss, ad vér gleymum þér, heldur gef ad vér midt í voru líkamliga erfidi, seum brennandi í anda, Drottni þjónandi. Gef ad vér stridum móti syndiuni bædi í sjálfum oss og ödrum. Ef vér heyrum edur sjáum brædur vora tala edur breita óguðliga, lát oss sorga yfir blindni þeirra, og med hógværd benda þeim til þess skélfiliga dóms, er þeir yfir sig draga. Lát samvitsku vora vera upplýsta og vidkvæma. Lát oss vinna þad vér vinnum med höndunum, ecki svo sem til ad þjóna holdinu, heldur þér, sem ert Herra vors lífs. Gef oss ad elska vorn náúnga, sem sjálfa oss, og gjöra vid alla, eins og vér viljum adrir gjöri vid oss. Veit oss ad hlýda kóngi vorum og öllum yfirvöldum; vera audsveipa vid vora lærifedur og leidtoga. Lát oss ei gjöra nockrum manni mein,

heldur þvert á móti vera réttsýna og sanngjarna í allri vorri breytni vid vora nágranna, og miskunsama og hjálparfúsa vid þá voludu. Lát oss ei ofunda adra fyrir sína lucku, heldur erfida sjálfa trúliga í vorri stiett, fyrir dagligu braudi, og vera svo ánægda med vor kiør, hvílik sem vera kunna. Veit oss ad halda vorum høndum frá øllum illum verkum, túngu vorri frá allslags illu tali, og hjarta voru frá øllu hatri og undirferli. En þar sem vér erum ecki færir um ad gjøra nockud af øllu þessu, af sjálfum oss til, heldur hljótum ad þyggja þína nádar adstod þar til, þá bidjum vér þig í Jesú nafni, gef oss þinn heilaga anda til ad lifa gudliga, lída þolinmódliga og deya sáluhjálpliga. Bænheyr oss vegna þíns kiærleika. Amen.

## A Midvikudags-kvøld.

O Gud vor skapari og verndari, þú gafst oss líf og tilveru í fyrstu, og hefir sídan vidmakthaldid oss allt til þessa augnabliks. Þú skapadir oss og gafst oss skilningsfulla sálu, svo vér gjætum trúad á þig, óttast þig og elskad af øllum vorum kraptum. Vér vorum settir í heim þennan til ad tilbidja þig, ad þacka þér og heidra þitt heil. nafn og ord, og til ad þjóna þér trúliga alla vora æfidaga. En vér høfum því midur ecki giørdt þetta, sem skyldum; vér høfum elskad adra hluti meira enn þig, og framar óttast

ad mödga menninna enn skyggja þig; já á þessum degi höfum vér, miskunsami Fadir! gleymt þér, sem ert þó höfundur allrar þeirrar blessunar og brunnur alls þess hjálprædis, sem vér oss óska kunnum. O Drottinn! vertú oss vesælum syndurum miskunsamur og nádugur! vér þöckum þér, ó Herra! ad þar er einn nádarstóll, til hvörs vér bodnir erum ad koma, svo vér ödlunst fyrirgéfníngu á umlidnum syndum, en nád til ad lifa gudligum lifnadi framveigis. O lát oss ecki bidja eins og hræsnararnir gjöra, sem þylja þad fram med sínum vörum, til hvörs þeir finna þó eckert í hjarta sér, annars kynnu bænir vorar í dóminum ad rísa upp í móti oss og fordæma oss. Medan vor kné lúta frammi fyrir hátign þinni, lát oss í hjartanu finna til sárrar laungunar eptir þinni nád, bædi til ad fyrirgéfa oss umlidnar syndir, og vardveita oss frá þeim eptirleidis. Allir vorir heimugligustu þánkar eru augljósir fyrir þér, svo vel sem vor ord og verk. Hjálpa oss nú ad ransaka sjálfa oss alvarliga á þessu kvöldi. Lát syndir vorar fylla huga vorn med ángri og tregg, og lát ecki minníngu þeirra oss úr huga falla, fyrr enn vér feingid höfum góda von um, ad þær séu oss fyrir Christs sakir fyrirgéfnar. Lát oss ecki leggja oss til hvíldar med sakbitinni samvitsku, eda andvaralausu hjarta. Heldur veit oss ad leggjast útaf í trausti forþénustu vors Herra og Frelsara Jesú Christs, og

ad mæna til hans í hiarta voru eptir frelsi fyrir vorar tøpudu sálir. Líd eckt, o Herra! ad vér slum þá íminduu, ad nær vér beigium vor kné fyrir þér í bæninni, og sýnum þér útvortis lotníngu, ad vér þá gjørum allt hvad af oss heimtast. Lát oss skilja þad, ad bænin er til þess ágvørdud, ad leida sálir vorar til þín, og gjøra þær þér líkar; og ad bænir vorar eru ei til neinna nota, nema þær verdi oss medal til ad ødlast þína miskunsemi í Christo, nema vér fyrir þær ødlunst þinn anda, sem vekji í oss elskuna til þín og vors náúnga, hlýdnina vid þín guddomlig bodord, og þolinmædi og ánægt sinni í øllum mótgángi; já yfir høfud, nema þær gjøri oss ástundunarsama í undirbúníngum undir daudan og dóminn. Þarfyrir, o Drottinn! veit oss þinn heil. anda, til þess vér gétum úthellt hjørtum vorum fyrir þér, svo sem vorum himneska fødur, fyrir Jesúm Christum. Og þar sem vér, svovel eptir, skipun þinni sem leisi, komum nú saman til ad frambera fyrir þig vorar vesælu bænir og lofgjørd, þá veit oss, Herra! ad vér fyrir þá dagligu æfíngu verdum æ framar og framar andliga sinnadir og innlífadir þínu blessada Evangelío, svo vér elskum þína vegu og tilskipanir med æ vaxandi eptirlaungun, høtum syndina med æ fullkomnara hatri og verdum æ hæfari og hæfari til þíns eilífa ríkis. O lát þad vera vort eptirlæti ad tilbidja þig, og vegsama þitt

nafn. Það er Einglanna yndi að sýngja þér lof; þínir þénarar á jörðunni hafa yndi af að tilbiðja þig; o að vér mættum verða í tölu þeirra, og hafa, sem þeir, eptirlæti af þinni þjónustu. Veit oss það fyrir Jesú Christs sakir! Amen.

## A Fimtudags-morgun.

O Drottinn! svo sem það er embætti þíns heil. anda, að sannfæra syndarana um syndir þeirra, og géfa þeim út af orði þínu að þeckja þann dýrmæta Endurlausnara, fyrir hvörs sakir þeir einasta géta feingið fyrirgéníngu synda sinna, veit þú oss, vér biðjum þig, ecki að eins að þeckja, heldur og svo' í hjörtum vorum að reyna krapt Christs og kjærleika hans til að frelsa vorar sálir. Sannfær oss um það, að hann sem á krossinum dó til að verka friðþægíngu vor vegna, er sannur Guð svo vel sem manneskja, og að þessvegna sé í hans blóði óendanligur kraptur til að frelsa oss frá syndunum. Gjör oss hæfa til að trúa því, að sá sem sjálfan sig útgaf í dauðan fyrir oss, hljóti að vera yfirmáta fús til að meðtaka oss, fyrirgéfa og frelsa. Og géf oss síðan náð til, í þessari trú til hans að koma, svo vér finna meigum hvíld sálum vorum. Æ Drottinn! að vísu eru syndir vorar fleiri enn hárinn á höfði voru, og með hvörri einni höfum vér unnið til þinnar reiði. O lát oss finna til þeirra byrði í samvitsku vorri, og einga ró hafa

fyr enn þú hefir oss þær fyrirgéfid. Vér viljum leggja vorar saurugu sálir undir strauma þíns blessada sonar forlíkunar blóds; lát þad hreinsa þær af öllum syndum, og gjör oss svo fullvissa um þeirra fyrirgéfníngu. Því hvörnig kunnum vér med gódu gédi ad vera vid vort erfidi á daginn, edur njóta hvíldar á nóttinni, ef vér ei höfum þá von ad vera þínir vinir fyrir Jesúm Christ; því svo leingi vér erum án Christs, erum vér undir þinni bannfæríngu, hvört sem vér förum, eda hvad vér gjörum. O þú nádugi Fadir! frelsa oss frá þeirri skélfiligu ólucku, bædi á þessum deigi, og alla tíma. En hér ad auki bidjum vér þig um nád til ad minnast heitorda vorra, er vér unnum þér vid skýrnarsatnn; vér lofudum þá ad afneita dioflinum og öllum hans verkum, hégóma og gjálífi veraldarinnar, og syndsamligum girndum vors eigin holds og blóds; vér hétum ad trúa öllum atridum christiligrar trúar, og hegda oss med hreinskilni eptir þínum vilja og ordi, alla vora æfidaga. En æ vor Gud! hvörsu svívyrdiliga höfum vér gleymt þessari vorri skuldbindíngu; vér höfum, æ því midur, hlýdt dioflinum, heiminum og voru eigin holdi framar enn þér, og þar á ofan vanrækt þad stóra sáluhjálpar medal í þíns sonar Jesú fridþægingu, med vorri vantru, hálfvelgju og hyrduleysi. O hjálpa þú oss gódi Gud, til ad breyta betur framveigis; géf oss lifandi trú til ad taka

ad oss fridþægíngu þíns sonar, med trúnni sannan kjærleika til þín og hans sálum þinnar nádar í honum, med kjærleikanum einlægan ásetníng til ad lifa eptir þínum heilaga vilja, og med ásetníngnum framkvæmd til ad audsýna vora hlýdni vid þig í öllum vorum athöfnum, leyndt og ljóst, í medlæti og mótlæti, allt til daudans. Gef oss ad hegda svo vorri hérvist í heiminum, ad vor útför af honum verdi oss til blessunar, en ei böls. Heyrdu nú, Drottinn! þessa vora audmjúku Bæn, og þar þú heitid hefir ad vera þar nálægur, hvar tveir edur þrír eru í þínu nafni samansafnadir, svo vertú þá í nád þinni hér á medal vor; og láttu þinn anda verka med oss allt hvad þér þægiligt er, fyrir Jesúm Christ! Amen.

## A Fimtudags-kvöld.

O þú allra voldugasti og miskunsami Fadir! þú sem medaumkun ber med öllum manneskjum, og hatar einga skepnu sem þú skapad hefir; þú sem ecki vildir syndarans dauda, heldur ad hann snúi sér frá syndum sínum og hólpinn verdi; fyrirgéf oss miskunsamliga yfirtrodslur vorar; tak á móti oss og endurnærdu oss, sem ángradir erum og þjádir, undir byrdi synda vorra. Pad er þinn eiginlegur eiginligleiki ad sýna miskun, og þér alleina tilheyrir þad ad fyrirgéfa syndirnar. Sparadu oss þar fyrir, gódi Gud! sparadu þitt

fólk, hvørt þú hefir endurleyst; gack ecki í dóm vid þræla þína, sem eru mold og aska, og veisæl-ustu syndarar; snú heldur í burtu þinni reidi frá oss, sem audmjúkir játum ok vora, og al-varliga ydrunst vorra misgjørda; flýt þér sídan ad hjálpa oss med náð þinni í þessari veröldu, svo vér í þeirri eptirkomandi meigum eilífliga med þér lifa, fyrir Jesúm Christ vorn herra. Og med því vér nú svoleidis játum syndir vorar og bidjum miskunar, þá áköllum vér þig enn framar, ad þú vyrdist ad skapa í oss nýtt hjartalag, og endurnýa innvortis med oss réttan anda. Snú þú oss gódi Gud, svo verdur oss snúid! gjør oss hæfa til ad fylgja dæmi vors blessada endurlausn-ara. Ef vér líkjunst hønum, verdum vér hóg-værir og af Hjarta lítilátir. O ad vér aldrei þyrftum til þess ad finna, ad gremja, reidi edur slíka uppstígi í vorum hjørtum. Herra! nidur-dempa allar þessar vondu gédshræríngar med oss. Lát eingin bitur ord framgánga af vorum munni; heldur géf ad vor stadføst ástundan sé í øllum hlutum, ad þócknast þér, þú nádarríki og miskunsami Gud! Lát oss, ó Drottinn! á hvør-jum deigi hugsa til vorrar sídurstu endalyktar, og sé þad vort ypparsta augnamid, ad undirbúa oss til ad mæta fyrir þér, nær þú setst á þinn réttlætis dómstól. Einkanliga, þegar vér leggjum oss nú til hvildar á þessari edur annari nóttu, þá géf oss ad minnast þess, ad vér innanskams

hljótum eins að leggjast niður í gröfina. Vér viljum nú þessvegna í augsýn þinni, ó þú Guð, sem hjörtun ransakar, prófa sjálfa oss rúliga á þessu kvöldi, hvört vér séum í því standi, að hafa frið við þig, fyrir Jesúm Christ vorn Herra; og ef sálir vorar skyldu nú verða af oss heimtaðar, hvört vér þá finna mundum náðuga viðtöku, fyrir þínum dómi. Þú hefir skipað oss að ransaka sjálfa oss, hvört vér séum í trúnni, eður hvört Jesús Christur búi í oss eður ecki? O að vor samvitska gjæti fyrir leiðsögn þíns anda, géfið oss eitt sannarligt og gott svar, uppá þessa spurníngu. Og ef nockur esi skyldi eptir verða, um eilífa velferð sálna vorra, ó að vér tækjum oss þá ecki hvíld, fyr enn hann er í burtu rýmdur! vér þöckum þér og lofum þitt heil. nafn, fyrir alla þá miskun, sem þú oss á umliðnum deigi auðsýndt hefir. Vér höfum fyrir þína elskuríku forsjón, umflúið margar háskasemdir, hvörra sjálfir vér höfum ecki varir orðið, og hjá hvörjum vér, með allri vorri eigin aðgjætslu, hefðum ecki gétað sneidt; ó að vor hjörtu væri nú eins inniliga hrærð af þacklátsemi fyrir þetta, sem vér framberum hana með vörum vorum. Það ert þú sem heldur oss við heilsu og krapta, gjör oss því hæfa til að afla heiðurligs lífs-uppheldis. Þú ert sá sem fæðir oss og klæðir. O Drottinn! vér tilbiðjum þína óforþéntu gjæðsku! Já vér biðjum þig, að þú vyrðist að bæta því ofan

á þau líkamligu gjædi, sem þú oss í té látid hefir, ad þú veitir oss líka svo þau allra dýrmætustu gjædi þinnar nádar í Christo Jesú. Fæd þú sálir vorar med braudi lífsins. Klæd þær med skrúda réttlætisins. Géf oss andliga heilsu og krapta, ad vér geingid gétum eptir þínum bodordum og setníngum óstraffanliga. O Drottinn! medtak þú vorar bænir; medtak þú vora lofgjørd; og á vorri dauda stundu medtak, himneski Fadir! vorn anda í þínar hendur, fyrir þíns sonar Jesú Christs sakir! Amen.

## A Föstudags-morgun.

Þad eigum vér, allramiskunsamasti Fadir! ad þacka nád þinni, ad vér á umlidinni nóttu høfum væran svefn feingid, og erum nú aptur af hønum heilir og lífs uppstadnir. O hvørsu óluckuligir værum vér, ef vér gleymdum nú ad inna þér vora þacklátsemi í stadinn, já ecki einasta fyrir þessa velgjørd þína, heldur fyrir allar adrar, sem þú oss audsýndt hefir, til lífs og sálar. En ó hvørsu kaldt er vort þacklæti, hvørsu dofin vor dyrdkan, hvørsu sveinug vor samviska! Svo vér meigum óttast, ad sú tilbeidsla og dýrdkan, sem vér nú látunst inna þér, verdi søkum vorrar hálfvelgju og andaktarleysis, reiknud oss til stærstu syndar. Æ Drottinn vor Gud! tendradú í hjørtum vorum sannan andaktar hita, svo vér gétum tilbedid þig og dýrdkad, í anda og

sannleika. Kveik í oss eina sanna lifandi trú á þinn son Jesúm Christ, og gef að hún verki fyrir kjærleikann til þín og vors náúnga, utskottar gudligt lifnadarlag til orda og verka. Vér hösum allt híngat til lifad í verøldinni þér til litillrar dýrdar, oss til litills sóma og ødrum til litills gagns. Vér áttum ad þjóna þér, en hösum þjónad heiminum og vorri syndum spilltu náttúru; vér áttum ad leita vorrar lucku og æru, med ad sækja eptir þinni náð og vináttu, en vér hösum vanvyrdt sjálfa oss og skadad med elsku hégómans og syndsamligra athafna; vér áttum ad uppbyggia vorn náúnga med gudligs lifnadar eptirdæmi, og efla hans andliga og líkamliga gagn trúliga, en í þess stad höfum vér hneigslad hann og gjørdt hønum skada uppá líf og sálu. Æ Drottinn gef oss ad ydrast þeirra af hreinu hjarta, og taka fyrir oss nýtt hugarfar og nýan lifnad, og þannig frambera þér sjálfa oss, vorn líkama og sálu, til eins skynsamligs, heilags og lifanda offurs, sem þér þóknast. En ádur enn þetta getur skéd, hlýtur þú sjálfur, nádugi Fadir, ad tilreida þetta offur handa þér, med því ad helga oss fyrir þinn anda í trúnni á þinn son Jesúm Christ, svo vér ysirstøcktir med hans allradýrmætasta sórnar blódi, mættum í þínu augliti hreinir, og fyrir þig framberiligir verda. Æ Þvo þú oss þá, helgadú oss og réttlættú í nafni Drottins vors Jesú og

af þínum og hans anda. Látt oss síðan í öllum hlutum, hvört vér etum edur dreckum, erfidum edur hvílumst, erum utan bæar edur innan, gjöra öll vor verk í þínu nafni og þér til dýrdar. O ad oss aldrei úr minni falli þinn kjærleiki til vor í Christo, aldrei hans elska til vor, sem sjálfan sig gaf í daudan fyrir oss, svo hjörtu vor ecki frá þér slítist fyrir líkamans umsorgunar sakir, allra síst fyrir syndugra girnda og svikular heims tælíngar, heldur ad vér ætíd höfum það eina stóra naudsýnliga fyrir augunum: ad verka sáluhjálp vora med vareygd og óttablendni, svo leingi vér lifum. Lát oss hjartanliga lánga til vors himneska Födurlands, er þinn sonur, Jesús hefir útvegad oss rétt til, og laungun sú örfi oss til ad keppast þángad, og gjöri oss þoluga undir þeim þrautum, sem oss á vorri lífsreisu mæta kunna. Já, lát þinn anda síselldliga minna oss á ad vaka og bidja, svo vér föllum ecki í freistni. Æ gef oss hann, himneski Fadir! gef oss hann, fyrir þíns elskuliga sonar Jesú Christs fyrirbónar og forþénustu skuld. Amen.

## A Föstudags-kvöld.

Almáttugi, eilífi Gud! sem ætíd ert fúsari til ad heyra oss, enn vér til ad bidja þig, og getur veitt oss lángt meira, enn vér kunnum um ad bidja, edur til ad hugsa; úthell yfir oss gnægd þinnar miskunar, hvör ad er óendanlig;

gef oss kvitta þá illu hluti, fyrir hvörjum samvitska vor er ótta sleigin; en veit oss þvílíka góda hluti, um hvörja vér ecki erum verdugir ad bidja; æ veit oss þá fyrir þíns sonar Jesú Christs sakir! Og þared þú, ó Drottinn, leisir oss ad koma fram fyrir þitt heil. augliti, þá láttú þín miskunar eyru opin vera fyrir bænum vorum; og svo ad vér séum vissir um, ad ódlast þad sem vér bidjum þig um, þá lát oss bædi bidja um þá hluti, sem þér er dýrdligt ad veita, en oss þarfligt ad þyggja, og bidja um þá med því hjartalagi, sem oss sæmir, en þér þocknast. En þar sem vér nú án þinnar nádar gétum ecki réttiliga bedid, þá gef oss þinn heil. anda, sem bædi kénni oss og hvetji til ad bidja, eptir vilja þínum. Veit oss ad sækja eptir þinni nád eins inniliga, sem einn til daudadæmdur sakamadur vildi bidja um miskun af sínum dómara; og audsýn þá slíka miskun vorum daudasekú sálum, fyrir þíns nafns og nádar skuld. O Drottinn! hvörir dagar og ár lída fram med mesta skyndi, og sérhvör einn þeirra flytur oss nær og nær daudanum, dóminum og eilífdinni. O ad vér sundid giætum í oss lifandi sannfæríngu um þad, hvörsu fánýtar séu flestar veraldligar fyrirtektir, en aptur á móti hvörsu nauðsynligt, svovel sem yfirmáta gagnligt, sé ad lifa í Guds sonar trú, svo hvenær sem daudinn yfirfellur oss, ad hann mætti þá fyrir hitta oss vel vidbúna, ad skilja

við heiminn og koma fyrir þinn dóm. O Guð, sem fyrirbúið hefir þeim sem þig elska þvílík gjæði, sem lángt yfirgánga allan mannligan skilníng, hell inní vor hjörtu, fyrir heil. anda slíkum kjærleika til þín, að vér elskum þig yfir alla hluti fram, og mættum svo öðlast þín fyrirheit, sem gánga lángt yfir allt sem vér girnast kunnum. O veit oss að leggjast út af á þessari nóttu, með þeim hugrenníngum, sem fastar séu við þá hluti sem þar uppi eru, hvar Christur er sitjandi til Guðs hægri handar, og þegar vér loksins eigum að deya, að vér þá gétum lagt oss undir þá földu dauðanshönd, með eins róligu og ánægðu géði, eins og vér nú leggjum oss út af til svefns í sængur vorar. O Guð! þú sem alleina kannt í reglu að setja óstöðugan vilja og tilhneigíngar syndugra manna, géf þú að vér elskað gétum þá hluti, sem þú býður oss, og girnst það sem þú oss fyrirheitið hefir; og það svo mjög, að vér, á meðal þeirra margföldu og ýmisligu umbreitínga í heiminum, gétum þó haldið hjörtum vorum alvarliga föstum við þá hluti, í hvörjum finna er sannan fögnuð og rósemi. O líð það ekki, að vér sviknir verðum af þeim tælanda veraldar hégóma. Líð ekki, að vér svíkjum sjálfa oss, með yfirskini guðhræðslunnar, midt í því vér afneitum þó hennar krapti. Géf oss því anda þinn til að þeinkja og gjöra alltíð þvílíka hluti, sem réttir eru; svo að vér, sem ei kunnum

neinn góðan hlut an þín að framkvæma, mættum hæfir verða til að lifa, líða og deya, eptir þínum vilja. Vér setjum ecki vort traust á nockurt vort eigið verk, því allar vorar athafnir eru eingis nýtar, heldur einasta á hann, sem borið hefir syndir vorar á sínum líkama uppá tréiu, svo vér fyrir hans beniar yrðum heilbrigðir. Veit oss, ó-Guð, að hans blessaða nafn verði oss dag frá deigi æ dýrmætara. Veit að vér allatíma með lifandi trú meðtökum hans friðþægíngu, sem þann ómetanligasta velgjörníng, og síðan uppfyllir af elsku til hans, kappkostum dagliga að fylgja blessudum fótsporum hans allra heilagasta lífernis. Almáttugi Guð, sem heitið hefir að heyra bænir þeirra, sem biðja þig í þíns sonar nafni, vér grátbænum þig, að þú miskunsamliga hneigja viljir þín eyru til vor, og géia gaum að vorum andvörpunum. Vér vonum að þeir hlutir, um hvörja vér þig í trúnni beðið höfum, eptir vilja þínum, muni oss sannarliga veitast, til uppfyllíngar vorra andligra og líkamligra nauðþurfta, en eflíngar þinnar eigin dýrðar, og það fyrir Jesúm Christ, vorn Herra og Frelsara. Amen!

## A Laugardags-morgun.

O þú allragjæðskurkasti góði Faðir! þú sem boðið hefir öllum þeim til þín að koma, sem finna hvörsu þeir þinnar náðar viðþurfa, og hefir lofað að reka þá ecki frá þér aptur. Æ gef oss, að

vér finna mættum húngur og þorsta eptir þinni fyrirgéfandi og helgandi náð. Veit oss ad lánga framar eptir þér, enn vorri dagligri fædu, já ad vér girnunst eingan hlut svo mjøg, sem þinn frid, þína náð og þinn kjærleika. Þú hefir ennú aukid lísdaga vora um eitt dægur, til þess ad oss aukast mætti þecking og reynsla þinnar nádar og kjærleika, hvørs ný merki ad ecki einasta hvørt dægur, heldur hvør ein stund í hvørju dægri, já hvør ein minúta og augnablik oss í té lætur. O veit þá, gódi Fadir! ad vor lifnadur og hjartalag géti svarad þessu þínu heilaga augnamidi. Þú vor Gud ert heilagur Gud, Jesús Christur vor Frelsari er heilagur Frelsari, þinn andi er einn heilagur andi, þitt himnaríki heilagur stadur, þínir einglar heilagir einglar, og allur þinn útvaldra skari heilagur søfnudur; ó Drottin, lát oss einnig heilaga vera, því án heilagleikans kann einginn þig ad sjá. Veit oss ad vér ecki einúngis høldum oss frá syndinni, af því hún uppegnir þitt réttlæti til ad straffa oss, heldur af því hún módgar þína miskun, sem vill frelsa oss. Veit oss ad hata þad vonda af því þú hatar þad, en elska þad góda af því þú elskar þad. Gef oss ad hata sjálfa oss af því vér erum syndarar og fyrir syndina ólíkir þér, en elska sjálfa oss, af því vér erum endurleystir til ad verda aptur ad nýu líkir þinni mind. Veit oss eins vel ad fordast vonda þánka í þinni nærveru, sem

vondar athafnir í mannanna nálægd. Lát oss einúngis girnast ad sýnast gódir í augsýn mannanna, heldur og vera gódir fyrir augsýn þinnar alvitsku, sem hjörtunn og nýrun ransakar. Já veit oss ad verda algjörliga ad nýu fædda, fyrir þitt ord og anda, því annars fáum vér ecki inngeingid ríki himnanna, hvörki þinnar nádar hér á jördunni, né þinnar dýrdar annars heims. O Drottinn! audmjúkir bidjum vér um þína adstod til alls þessa, því án hennar megnum vér öldúngis eckert. Sjálfir getum vér steipt oss í fordæmíngu, en eingan veginn frelsad oss aptur frá henni. Af sjálfum oss til getum vér eckert nema syndgad og svipt oss þinni nád. Æ gef oss þarfyrir krapt þíns heil. anda, til ad géta fyrir hans fullíngi ordid þad sem þú villt láta oss verda, ordid heilagir í voru hugarfari, lastvarir í vorum lifnadi, þacklátir fyrir þína velgjörníngu, þollyndir undir þínum typtunum, kjærleiksfullir vid vora medbrædur og kostgiæfnir í ad vardveita trúna og góda samvitsku; svo vér ad lyktum ödlast mættum kórónu réttlætisins. O Drottinn! finnirdu nú ydrun vora hreina ad vera, þá fyrirgéfdu oss allar vorar syndir, vegna þinnar miskunar í Christo, en sé hún ecki svo sönn og einlæg, sem vera ber, æ svo láttú þá þinn anda þángad til straffa, sannfæra og sundurmerja vor hjörtu, ad þau hæfilig verdi til ad mótitaka þinni miskunandi nád. Þú hefir þó umvendt

þúsund syndurum, sem ei hafa ölu betur verið á sig komnir enn vér, og kraptur þinnar umvendandi nádar, er hinn sami, sem hann hefir ádur verid. Allir hlutir eru þér mögligir. O lát oss því verda svo luckuliga ad bætast ínní tölu þeirra sem verda eitt minnismerki þinnar miskunar ad eilífu. Vér höfum ad vísu sjálfir eckert til ad betala þér med, en þinn sonur Jesús hefir þad lausnargjald, med sínu vínu og dauda, vor vegna, fyrir þig framlagt, sem þú hefir vottad þig aldeilis ánægdan med; þessvegna bidjum vér þig, í hans nafni, um nád og fyrirgéfníngu; bænheyrdú oss, blessadi Fadir, fyrir hans sakir. Amen.

## A Laugardags-kvöld.

Vid endalok umlidins dags og undireins umlidinnar viku, komum vér nú saman, ó Drottinn! fyrir þínu augliti, og med þacklátum hjörtum vidurkénnum gjædsku þína, sem oss verndad hefir. Lát oss, ó Gud, alvarliga minnast þess, ad sérhvör dagur edur vika, sem lídur af æfi vorri, flytur oss nær daudanum, dóminum og eilífdinni. Vér erum því einni viku nær endalykt vorri nú, enn vér vórum, þegar vér endtum næstlidna viku. O ad þad reyndist þá, ad vér værum í sinni voru en nú alvörugéfnari, enn nú betur vakandi, enn vér ádur vorum, og fyrir þá skuld enn hæfiligri ordnir til arfskiptis þeirra

frelsgu í ljóst þinnar náðar og dýrðar. O að vér af allri alvöru hugleiddum það á þessu kvöldi, að maðurinn, af kvinnu fæddur, lifir hér stutta stund og er fullur eymdar; að hann vex upp, og verður afhöggvin eins og blómstrið, að hann hverfur eins og hann væri skuggi, og hefir ei lánga dvöl í sama stað. O að sérhvör af oss myntist þess nú, að vér midt í lífinu erum sem í dauðanum. Hjá hvörjum skulum vér þá hjálpar leita, nema hjá þér, ó Drottinn! sem þó réttilega reiðist ei yfir syndum vorum. Eingu að síður biðjum vér þig, þú heilagi Herra Guð, heilagi sterki Guð, þú líknsami lausnari, þú æfinligi Guð, lát oss ei falla í þá grimmu neyð hins eilífa dauða! Þú þekkir, Drottinn! sjálfsi hjarta vorð; byrg ecki þín miskunar eyru fyrir bænum vorum, heldur þyrm oss þú heilagi Herra, ó þú sterki og líknsami Guð! O þú heilagi og miskunsamasti Frelsari, þú hátignarligi eilífi dómari, lát oss ecki á vorri síðustu stundu, fyrir sakir nockurrar dauðans pínu frá þér falla. En þá ertu, ó Drottinn! svo náðugur að unna oss þess, að eiga í vændum að sjá einn blessaðan sabbatsdag yfir oss upprenna á morgun. Ef þú lofar oss að lifa til að sjá hann, ó að hann mætti þá verða oss sannur hvíldardagur, ecki einúngis frá líkamligu erfiði, heldur ogsvo frá syndum, frá veraldligum þaunkum og jarðneskum umsorgunum. Lát sinni vort tilreidt verða til að merkja þína

hátígnarfullr nálægð, og til að brúka hvíldardaginn þér til dýrðar, en oss sjálfum til nytsemdar. Lát oss ecki eyða þeim dýrmæta deigi til sántra hluta, heldur undireins og vér vöknum fara að tilbiðja þig og vegsama. Lát oss þá vera fulla af andaktugri tilfinníngu þinnar stóru gjæðsku. Og svosem endurlausnari vor reis af dauða á þeim deigi, svo lát oss einnig upprísa með heilagri eptirlaungun til þess bústaðar, hvar hann á himnum uppi er, og til þess að meiga með hans útvöldum vidsrægja hans dýrð að eilífu. O Drottinn, lát oss ecki eyða þeim hvíldardeigi, sem kémur, á sama hátt, sem vér cydt höfum ofmorgum þeirra umliðnu híngað til, heldur gef, að sálir vorar mættu, við hans brúkun undirbúast til þess eilífa hvíldardags, og að vér allareiðu, meðan lifum í þessari veröldu, tökum að ydka þær æfíngar í hvörjum útvaldir hafa sitt eptirlæti eilífliga.

Himneski Faðir, sameinaðú vor hjörtu í andamum til að sýngja þér lof og prís. Hjálpaðú oss, ó Drottinn, til að færa oss með fögnuði í nyt þau dýrmætu náðarmeðöl, sem hvíldardagurinn oss í té lætur. O að vér mættum vænta þess fyrir þína náð, að vér á morgun uppskérum stærri gagnsemi og gleði af brúkun þeirra, enn vér nockrusinni áður fundið höfum, í þessari hégómligu veröldu. Vér erum að sönnu aldeilis ómakligir þess að fá þá náð, að sjá lysir oss

framar upprenna ljós þíns hvíldardags, ad heyra eina heilaga rædu út af þínu Evangelío, edur ad vid oss sé talad nockud framar, um kjærleika vors deyanda Frelsara; já vér erum ómakligir ad koma til þíns húss, og ad sameina oss þeim hópnum, sem hefir þá blessudu ydju, ad tilbidja þig og vegsama, sem vera á þó vor ypparsta æfing í þessum heimi; en þó vér þessa ómakligir séum, samt vitum vér, Drottinn, ad þín miskunsemi er stór; og þarfyrir dyrfunst vér ad vona þess, ad þú ei munir taka oss í burtu úr þessari veröldu, fyrenn þú hefir giørdt oss hæfiliga til annarar betri.

Lokkins, ó Fadir! felum vér í þínar miskunar hendur sálir vorar. Frelsadú þær, trúfasti Drottinn Gud! þvodú þær med því dýrmæta lausnarblódi þíns elskuliga sonar, af øllum þeirra syndum; helga þú þær fyrir nádarverkun þíns heilaga anda; og ad sídustu medtaktú þær í þitt eilífa dýrdar ríki, fyrir Jesú Christs sakir! hvørjum med þér, og heiløgum anda sé dýrd og vegsemd, ad eilífu! Amen!

---

## Morgun Sálmur af útgéf.

**Med lag: Daudans þúngu kraminn kvøl rc.**

Hjartans ástar þackir þér" þessar fyrir nætur værdir," Fadir minn! eg færi hér" Fridur þinn

mig endurnærdi," til minnar ydju geing eg glad-ur," med gódri heilsu nýbaknadur.

Mikil, Gud! er mildi þín," mér óverdum nád sem veitir," skyldu er gleymi margri mín," og móti þínum vilja breyti;" þú lénar mér samt lífsins gjædi," líkt sem þér eg gedjast nádi.

Nú mín sálar ósk er ein," ad á þessum komna deigi," frí vid alla glæpa grein," gánga fyrir þér eg meigi", nutú mér sú ósk uppfyllist"; æ veit mér eg þig adhyllist.

Lát mig dafna ad dygda sjód", en dygdir-nar af trúnni spretta", fyrir Jesú blessad blód", blídi! veit Fadir! veit mér þetta", um þad bid af innsta grunni", undir eins med hjarta og munni.

Hvörsu um mína hagi fer" í heiminum ad ödru leiti", forsjón þinni fel eg hér", fullsruggur; nád þín veiti", ad mér snúist allt til besta" audnu lán og sorgin mesta.

Svo skal þennan dýra dag", Drottin! byrja í þínu nafni"; annastú vorn allra hag, svo allt hvad höfum fyrir stafni", afdrif mætti hin æskta finna", oss til luckn enn dýrdar þinnar!

## Kvöld Sálmur.

### Sama lag.

Dagur þessi á enda er", enda samt ei náð-inn tekur", oss sem jafnan alla hér", annast

leidir, svæsir vekur"; Það vér, Faðir! Þackum einum" Þér, sem geymir oss frá meinum.

Fyrir mitt leiti sinn eg Það" Føðurhønd Þín hvørsu greidir", hagi mína í hvørjum stað", hættur allar gégnum leiðir"; nyti eg ei náðar Þinnar", nauðir mundi' eg ótal finna.

Enn nú hefir heilsa og líf", hlotnast mér á Þessum deigi", Því eg var í Þinni hlíf", Þín ástsemdin bráist mer eigi"; allir meigum sama sanna", sérhvør Þína náð séck kannað.

Þolinmæði Þín er stór", Þreytist ecki líkn að sýna", Þó að glæpa verkin vor", vilji taka seint að dvína"; sæmum og jøfnum synd að vinna", samur og jafn Þú náð villt inna.

Sérhvør dagur, sérhvør stund" sýnir oss Þann gleði vottinn", að Þú villt á alla lund" annast oss og geyma, Drottinn!" eins í nótt oss verndan veittu", við oss føðurliga breyttu.

Lát oss sofa vel og vært", og vakna Þér til dýrðar aptur", Þér sem fáum Þackir fært", Þér hvørs eigi dvínar kraptur", svo bæði á nótt og nýtum deigi" náðin Þín oss gleðja meigi.

Lát oss njóta lausnarens", lauk hann gjøldin vorra saka"; nú viljum í nafni hans", til náðar Þinnar, Faðir! kvaka": geym Þú oss frá gløtun nauða!" geym Þú oss í lífi og dauða!

---

Kaupmannahøfn 1821.
Prentað hjá Þorsteini E. Rangel.